ÖREIGAR ALLRA LANDA SAMEINIST!

LIFI MARXISMINN-LENINISMINN-HUGSUN MAÓS TSE TUNGS!

# Stéttabaráttan

MÁLGAGN KOMMÚNISTAFLOKKS ÍSLANDS / MARXISTA-LENINISTA 9 tbl, 5. árg, 1976. VERÐ KR. 30.



# ÍSLAND ÚR NATO HERINN BURT!

Í 25 ár hefur bandarískur her haft stöðvar á Íslandi, og jafn lengi hefur baráttu íslenskrar alþýðu gegn honum staðið.

Nærvera bandarísks hers á Íslandi og vera Íslands í NATO er ekki einvörðungu blettur á þjóðarheiðri íslendinga, hún er fyrst og fremst ógnun gagnvart íslenskri alþýðu og sjálfráðarétti þjóðarinnar. Þær leyniskýrslur sem nýlega hafa verið opinberaðar sanna hver hinn raunverulegi tilgangur með bandarískum herstöðvum er á Íslandi. Þær fletta grímunni af hinum svokallaða "varnarsamningi" Íslands og Bandaríkjanna og leiða í ljós, að bandarískum her á Íslandi er fyrst og fremst beint gegn framsýnni baráttu íslensku alþýðunnar. Það er gegn framsýnni baráttu verkalýðsins sem herstöðin var reist, það er gegn fullum sjálfráðarétti íslensku þjóðarinnar, sem Ísland gekk í NATO.

Landhelgismálið hefur einnig sýnt órækt fram á þetta árásareðli bandarísku heimsvaldastefnunnar og hernaðarlegra bandamanna hennar í NATO. Vopnuð árás breskra herskipa hefur opnað augu æ fleiri fyrir þeirri staðreynd, að bandarískur her er ekki hér til að "vernda" Ísland, né heldur dugir vera Íslands í NATO til slíkrar "verndar". Bandaríkjamenn og aðrir NATO-aðilar styðja vopnaða íhlutun breta í brýnasta hagsmunamáli íslendinga, hernaðarlegan yfirgang þeirra á miðunum. Árás breskra herskipa á miðunum er árás NATO gegn sjálfráðarétti íslensku þjóðarinnar. Bandaríska heimsvaldastefnan tekur afstöðu með þessari árás, með því að neita íslensku ríkisstjórninni um varðskip. Alls staðar í veröldinni verða smáríki og kúgaðar þjóðir fyrir yfirgangi og íhlutun heimsvaldastefnunnar og sérstaklega hernaðarbandalaga risaveldanna. Þetta er óvinur allrar vinnandi alþýðu, hvar sem er í heiminum. Þess vegna skipar íslensk alþýða sér við hlið vinnandi alþýðu um allan heim í baráttunni gegn hernaðarbandalögum risaveldanna tveggja.




Tæp 10 ár eru liðin síðan Keflavíkurganga var síðast gengin til að mótmæla nærveru hersins og veru Íslands í NATO. Endurvakning þessarar hefðar er til marks um, að baráttan er að hefjast að nýju. Æ fleiri fylkja sér um málstað herstöðva- og NATO-andstæðinga, sífellt fleiri snúa baki við lygaáróðri afturhaldsins og handbendum bandarísku heimsvaldastefnunnar hérlendis. Nauðsynin á virkum og voldugum alþýðusamtökum hefur aldrei verið meiri. Alþýðusamtökum, sem safna undir sín merki NATO-andstæðingum úr öllum stjórnmálaflokkum, og gera baráttuna bæði samfellda og víðtæka. Stofnun slíkra liðsmannasamtaka er brýnasta verkefni okkar nú, því aðeins slík samtök alþýðunnar sjálfrar verða fær um að reka herinn burt og tryggja uppsögn NATO-samningsins. Varnir Íslands verða aðeins tryggðar af íslenskri alþýðu sjálfri.

Sækjum fram til stofnunar öflugra liðsmannasamtaka!
Ísland úr NATO - herinn burt!

# Stofnum liðsmannasamtök

### Stofnþing Kommúnistaflokks Íslands

## Ályktun um NATO og herinn

Stríðsundirbúningur risaveldanna ógnar heimsfriðnum. Heimsvaldastefna þeirra beinist fyrst og fremst gegn ríkjum þriðja heimsins og smáum þjóðum. Þess vegna er barátta fyrir þjóðfrelsi og friði órjúfanlega tengd baráttunni gegn drottnunarstefnu risaveldanna. Baráttan gegn heimsvaldastefnu risaveldanna felur meðal annars í sér baráttu fyrir því að hernaðarbandalögin verði leyst upp og hersveitir heimsvaldaríkjanna í öðrum ríkjum verði kallaðar heim.

Baráttan á Íslandi gegn USA-heimsvaldastefnunni má ekki fela í sér grandvaraleysi gagnvart heimsvaldastefnu Sovétríkjanna. Þessi barátta er jafnframt barátta smáþjóðar fyrir varðveislu sjálfsákvörðunarréttar og sjálfstæðis síns. Baráttan gegn NATO og hernum er því nátengd útfærslu landhelginnar í 200 mílur. Yfirgangur breska NATO-flotans hér við land er aðeins staðfesting á því, að NATO-aðild er andstæð hagsmunum íslenskrar alþýðu. Í þessari baráttu verður KFÍ/ML að stuðla að sem breiðastri samfylkingu vinnandi alþýðu og annarra andheimsvaldasinna undir forystu verkalýðsstéttarinnar.

Barátta íslensku alþýðunnar fyrir úrsögn Íslands úr NATO og brottrekstri hersins frá Íslandi er hluti af baráttunni gegn hernaðarstefnu og stríðsundirbúningi risaveldanna. Þessi barátta er stuðningur við baráttuna gegn heimsvaldastefnu, hernaðarbandalögum og fasisma, hvar - sem er í heiminum. Þess vegna styðjum við baráttu íslenskrar alþýðu fyrir úrsögn Íslands úr NATO og brottrekstri hersins frá Íslandi Um leið leggjum við áherslu á að þau samtök herstöðvaandstæðinga sem til stendur að stofna á næstunni verði byggð upp sem liðsmannasamtök.

Ísland úr NATO - herinn burt!
Gegn stríðsundirbúningi risaveldanna!
Verndum sjálfsákvörðunarréttinn!
Ísland fyrir íslenskan verkalýð og vinnandi alþýðu!

Baráttan fyrir brottför hersins og úrsögn Íslands úr NATO hefur farið vaxandi nú undanfarið. Afar margir hafa uppgötvað hversu barátta er mikilvæg til verndunar þjóðlegu sjálfstæði gagnvart vaxandi drottnunarstefnu risaveldanna og hernaðarbandalaga þeirra. Stöðugt fleiri óska eftir tækifæri til að taka virkan þátt í baráttunni, sérstaklega vegna landhelgismálsins sem hefur vakið marga til baráttu og sem sjá sig beinlínis knúða til að hefjast handa. Því að í landhelgisdeilunni sjá þeir hvað baráttan fyrir brottför hersins og úrsögn úr NATO er nauðsynleg.

En þegar herstöðvaandstæðingum bætist nú margt baráttufúst fólk, koma brestir skipulagsins skýrt í ljós. Skipulögð samtök herstöðvaandstæðinga hafa enn ekki verið stofnuð. Eina skipulagið sem herstöðvaandstæðingar hafa í dag eru hópar sem starfa hver út af fyrir sig að sérverkefnum og þá aðallega að ýmsum athugunum á afleiðingum hersetunnar og veru Íslands í NATO Auk þess er Miðnefnd. Hennar aðalverkefni er að úthluta verkefnum til hópanna en á að öðru leyti ekki að stjórna baráttunni. Þetta skipulag getur þjónað sem ákveðið form til að tengja saman starfskrafta þeirra sem hafa verið að vinna að þessum málum á tímum þegar lítið er að gerast. En nú þegar hafa starfskraftar herstöðvaandstæðinga vaxið því yfir höfuð.

Ástand baráttunnar í dag hefur sett kröfuna um liðsmannasamtök herstöðvaandstæðinga á oddinn. Núverandi skipulag gerir ekki ráð fyrir að starfið út á við sé í fyrirrúmi. Ástandið í pólitískri baráttu í þjóðfélaginu hreinlega krefst þess að þessu verði snúið við. Við þurfum virk liðsmannasamtök sem leggja aðaláherslu á að auka starfið út á við með þátttöku starfandi, skipulagðs fólks. Liðsmannasamtökin þurfa að vera þannig byggð upp að þeim sem í þeim eru sé gefinn kostur á að taka þátt í starfinu og ákvörðunartektinni. Það er mjög mikilvægt fyrir alla herstöðvaandstæðinga að gera sér ljóst að það verður aldrei unninn sigur í þessu máli án virkrar þátttöku fjöldans. Það er fyrir löngu búið að reyna allar aðrar leiðir. Við megum ekki láta þetta tækifæri sem við höfum nú til að færa baráttuna á réttar brautir renna okkur úr greipum.

Á liðsmannafundi á Hótel Borg í vor var samþykkt að stofna skyldi liðsmannasamtök í maí. Nú hefur Miðnefnd gert einhvers konar samþykkt um að stofnun slíkra samtaka verði ekki fyrr en í haust. Það er slæmt að Miðnefnd ber ekki gæfu til að sjá mikilvægi stofnunar strax, en við því er ekki mikið að gera - alla vega ekki innan Miðnefndar. Þeim mun meiri ástæða er til að efla starfið utan hennar fyrir stofnun slíkra samtaka.

Það er til dæmis mjög mikilvægt að þeir hópar sem hafa nú þegar hafið starf að einhverjum sérverkefnum, tækju til umræðu skipulag fyrir samtökin og stefnuskrá þeirra. Því fyrr sem slíkur undirbúningur byrjar, þeim mun betra. Ef nauðsynlegur undirbúningur dregst fram á haustið er allt eins líklegt að ekki takist einu sinni að stofna þau þá.

Í dag er baráttan í örum vexti. Okkur ber því skylda til að taka leiðsögn í þessari baráttu og gefa henni rétt innihald og markmið. Nærtækustu verkefnin núna eru nefnd hér að framan; mótun stefnuskrár og reglugerðar. Einnig er mikilvægt að taka allt starf herstöðvaandstæðinga til gagnrýninnar endurskoðunar með það markmið að gera það markvissara og öflugra. Þess vegna væri mjög mikilvægt að starfshópar mynduðust um stofnun liðsmannasamtaka og að allir herstöðvaandstæðingar taki fullan þátt í því starfi. Það er leitt til þess að vita, að þeir sem ættu að vera fremstir í baráttunni skuli nú lötra á eftir hreyfingunni.

-/GA

# Staparáðstefnan

Ályktun ráðstefnunnar í Stapa um verkefnin framundan

Brýnasta verkefni Herstöðvaandstæðinga næsta árið verði að örva sem mest frumkvæði áhugasamra einstaklinga, sem taka að sér að vinna í starfshópum að tilteknum verkefnum. Í lok þessarar ráðstefnu verði kosin 12 manna miðnefnd sem hafi yfirsýn yfir starfsemi herstöðvaandstæðinga, annist útgáfustarfsemi á vegum þeirra geri starfsáætlun fyrir næsta ár, stuðli að myndun sjálfstæðra starfshópa og afli fjár til nauðsynlegra útgjalda. Miðnefnd verði ekki ætlað að senda frá sér ályktanir í nafni herstöðvaandstæðinga um afstöðu þeirra í tilteknum málum, heldur verði hlutverk hennar fyrst og fremst að vera tengiliður milli starfshópa innbyrðis, milli þeirra og annarra herstöðvaandstæðinga og milli þeirra og fjölmiðli, og getur hún gert samþykktir er að þessu lúta. Miðnefnd haldi eigi sjaldnar en einu sinni í mánuði fundi með fulltrúum starfshópanna. Hún standi fyrir fjöldaaðgerðum gegn hersetunni og getur boðað til funda, þar sem samþykktir eru gerðar, enda séu þeir opnir öllum andstæðingum hersetunnar. Í síðasta lagi að ári liðnu boði miðnefnd í samráði við fulltrúa starfshópanna til nýrrar ráðstefnu herstöðvaandstæðinga til að skipuleggja starfsemina og taka ákvörðun um stofnun samtaka herstöðvaandstæðinga og skili þar af sér störfum.

Í fyrsta lagi þarf að kanna stöðu málsins hjá þjóðinni og gera sér grein fyrir, hvaða sjónarmið ráða mestu um skoðanamyndun fólks í þessu máli.

Í öðru lagi þarf að rannsaka áhrif hersetunnar á íslenskt þjóðlíf m.a. áhrif hennar á tungu og menningu, á vinnuafl í íslenskum atvinnugreinum og eiturlyfjanotkun hérlendis, og kanna þarf núverandi hagsmuna tengsl íslenskra aðila við herinn og herstöðina, t.d. olíufélaga og verktaka, og búsetu starfsmanna herstöðvarinnar utan flugvallarsvæðisins.

Í þriðja lagi þarf að kanna vandlega hernaðarlega hlið málsins, starf varnarmálanefndar og afskiptaleysi íslenskra stjórnvalda af athöfnum hersins, hernaðargildi stöðvarinnar og eðli hennar við breyttar aðstæður.

Í fjórða lagi þarf að afla upplýsinga um væntanlega þróun Keflavíkurflugvallar sem alþjóðlegs flugumferðarsvæðis.

Í fimmta lagi verði unnið að áætlun um brottför hersins og höfð um það náin samráð við alla þá pólitísku aðila sem að því vilja vinna.

Önnur verkefni, sem til greina koma á komandi vetri er að gera vandaða úttekt á öllum mikilvægustu þáttum herstöðvamálsins. Mikilvægt er að herstöðvaandstæðingar noti næsta árið til að efla tengsl sín með ýmsum hætti og koma baráttunni fyrir brottför hersins sem mest á dagskrá í ýmsum félögum og samtökum og þá ekki síst í launþegasamtökum. Vorið 1976 verða 35 ár liðin síða bandarískur her sté hér fyrst á land og 25 ár frá því að erlent herlið settist að í landinu öðru sinni, og ber herstöðvaandstæðingum að sjálfsögðu að minnast þess með eftirminnilegum hætti, svo sem með fjöldaaðgerðum er miðnefnd efni til, og með aukni fræðslu-, upplýsinga- og útgáfustarfi.

Erlend herseta í landinu og aðild að hernaðarbandalagi felur í sér skerðingu á sjálfstæði þjóðarinnar og hefur í för með sér margvísleg óæskileg áhrif á íslenskt þjóðlíf. Brottför hersins og úrsögn úr NATO er því forsenda fyrir fullu og óskoruðu sjálfstæði, en jafnframt því sem herstöðvaandstæðingar skírskota til sjálfstæðis- og þjóðernisvitundar landsmanna, hljóta þeir að leggja áherslu á alþjóðlegt samhengi herstöðvamálsins og þá staðreynd að baráttan gegn herstöðvunum á Íslandi er liður í örlagaríkri viðureign smáþjóða víða um heim, sem heyja baráttu gegn yfirgangi og sífelldri ásælni stórveldanna. Jafnframt er barátta íslenskra herstöðvaandstæðinga liður í víðtækri baráttu gegn hernaðarbandalögum og síaukn um vopnabúnaði og vopnaframleiðslu herveldanna.

# Ísland milli risaveldanna

Í dag einkennist umræða herstöðvaandstæðinga af því að sá valkostur þjóðarinnar, að vera óháð og utan allra hernaðarbandalaga, hefur lítt verið tekinn til meðferðar. NATO-sinnar telja að eina leiðin fyrir íslendinga sé að binda trúss sitt við bandaríska heimsveldið. Við vitum hvaða afleiðingar það hefur í för með sér, síðustu aðgerðir NATO-flotans hér við land hafa sýnt ljóslega, hvert eðli bandalagsins er.

En hver er valkostur þjóðarinnar utan hernaðarbandalaga? Hver er staða Íslands milli risaveldanna, hvernig verður sjálfstæðið tryggt? Stafar Íslandi hætta frá Sovétríkjunum? Hvernig verður landið varið eftir úrsögn úr NATO?

Þessum spurningum verða NATO-andstæðingar að svara ef okkur á að takast að brjóta á bak aftur áróður NATO-sinna.

Barátta okkar gegn veru Íslands í NATO og dvöl bandaríska herliðsins hér á landi er liður í and-heimsvaldasinnaðri baráttu sem á sér stað um allan heim. Hvarvetna þar sem bandarísku heimsvaldasinnarnir sýna klærnar þar rís alþýðan til baráttu gegn yfirgagni þeirra. Undanfarin ár eru ár mikilla sigra fyrir þær kúguðu þjóðir sem hafa með vopn í hönd losað sig undan okinu. Hæst ber sigurinn í Víetnam.

Í rás baráttunnar hefur bandaríska heimsveldið afhjúpast æ betur frammi fyrir okkur, nær daglega koma fram í dagsljósið nýjar og nýjar sannanir um fólskuverk þessara óvina alþýðunnar.

Þó að bandaríska heimsveldið sé nú á undanhaldi þá er enn full ástæða til árvekni og stöðugrar baráttu - bandaríska heimsvaldastefnan er enn grimm og gráðug.

En ástandið í heiminum hefur breyst, nýr ógnvaldur er kominn fram á sjónarsviðið. Sovéska sósíalheimsvaldastefnan er tilkomin eftir valdatöku Krúsjof-klíkunnar í Sovétríkjunum, hún er ung og gráðug og hyggur á sama hátt og bandaríska heimsvaldastefnan á heimsyfirráð.

Þessi staðreynd, sem hefur sannast hvað eftir annað á undanförnum árum, setur öllum and-heimsvaldasinnum þær skyldur á herðar að berjast einnig gegn yfirgangi og stríðsundirbúningi sósíalheimsvaldastefnunnar. Þessi tvö risaveldi eru nú í dag höfuðóvinir verkalýðsins og kúgaðrar alþýðu hvarvetna, þess vegna er ekki hægt að einbeita baráttunni að öðru og gleyma hinu.

Á Íslandi er það bandaríska heimsvaldastefnan sem hefur í bandalagi við innlend þý komið sér upp herstöðvum. Íslenskir and-heimsvaldasinnar berjast fyrir því að losa landið undan áhrifum bandaríska risaveldisins - við berjumst fyrir óskoruðum sjálfsákvörðunarrétti íslendinga. En virk barátta fyrir sjálfsákvörðunarrétti þjóðarinnar verður að snúast gegn allri ásælni, hvort sem hún kemur frá Bretlandi eða Sovétríkjunum. Eina aflið sem getur tryggt sjálfstæði þjóðarinnar og óskoruð yfirráð yfir eigin landi og auðlindum, er íslensk alþýða. Íslenskir and-heimsvaldasinnar verða því að starfa ötullega að því að efla árvekni alþýðunnar gegn öllum hættum.

Við berjumst gegn veru Íslands í hernaðarbandalagi, en við berjumst jafnframt gegn öllum hernaðarbandalögum heimsvaldasinna. Þess vegna verðum við að taka ótvíræða afstöðu gegn bæði NATO og Varsjárbandalaginu.

Framtíð þjóðarinnar verður aðeins tryggð af íslenskri alþýðu og það er aðeins sú alþýða sem er þess fullbúin að taka málin í eigin hendur sem er fær um að verja landið allri ásælni.

Verkefni liðsmannasamtaka herstöðvaandstæðinga er því ekki aðeins að losa landið undan áhrifum NATO og USA, framsýn barátta þessara samtaka byggist á því að efla sjálfstæðisvitund íslenskrar alþýðu. Til þess að sinna því verkefni verður að hefja víðtæka umræðu um heimsástandið og stöðu Íslands. Árvökul alþýða er eina aflið sem getur skákað íslenskri borgarastétt. Borgarastétt sem ætíð er reiðubúin að selja sjálfsákvörðunarrétt þjóðarinnar fyrir eigin gróðahag.

-/hh

# Hvað vill KFÍ/ML

Í inngangi að bæklingnun "Hvað vill KFÍ/ML" segir m.a.:

"Stofnþing KFÍ/ML táknar mikilvægustu þáttaskil í sameiningu íslenskra marxista-lenínista. Með stofnun Kommúnistaflokksins er lokið tímaskeiði smáhópaskipulags marxísku-lenínísku hreyfingarinnar. Við tekur tímaskeið uppbyggingar kommúníska flokksins með það að markmiði að byggja flokk, sem er fær um að stýra valdbyltingu verkalýðsins og uppbyggingu alræðis öreiganna.

Efni þessa bæklings hlýtur að skoðast sem umræðugrundvöllur innan marxísku-lenínísku hreyfingarinnar. Allir íslenskir marxistar-lenínistar, hvort sem er innan eða utan flokksins, eiga að taka þennan bækling til náms í þeim tilgangi að efla og styrkja sameiningu marxista-lenínista í einn flokk."

"Hvað vill KFÍ/ML" er hægt að fá í Rauðu stjörnunni, Rvík, og hjá umboðsmönnum Stéttabaráttunnar um land allt.

Rauða stjarnan
Lindargötu 15 R.

# Full yfirráð yfir 200 mílunum

Fátt hefur orðið til þess að afhjúpa hið sanna eðli NATObetur en landhelgisdeilan. Fyrir réttum fimm árum setti íhaldið undirskriftasöfnun af stað til þess að afla stuðnings við aðildina að NATO og veru bandaríska hersins á Íslandi. Í dag væri slík söfnun dæmd til að mistakast. "Varið land" herferðin náði tilgangi sínum, fyrst og fremst vegna þess, að alþýða manna hafði ekki enn fengið staðfestingu á röksemdum NATO-andstæðinga, út frá eigin reynslu.

## Barátta risaveldanna um yfirráðin yfir heimshöfunum

Landhelgisdeilan er sem kunnugt er, ekki einangrað íslenskt fyrirbæri. Lönd þriðja heimsins og margar þjóðir sem byggja afkomu sína að miklu leyti á fiskveiðum, hafa um nokkurra ára skeið barist fyrir 200 mílna fiskveiðilögsögu. Framan af snerust risaveldin gegn þessari kröfu, en eftir að ljóst var orðið að yfirgnæfandi meirihluti ríkjanna á hafréttarráðstefnu SÞ var henni fylgjandi, breyttu bæði USA og Sovét um taktík í málinu. Nú lýstu þau sig fylgjandi 200 mílunum - en með þeim skilyrðum, að þau hefðu frjálsar hendur um siglingar herskipaflota sinna innan landhelgi þessara ríkja, og fengju óáreitt að stunda "vísindalegar" rannsóknir innan þeirra. Þessar "vísindalegu" rannsóknir eru ekki annað en skipulögð rányrkja heimsvaldastefnunnar á auðlindum smárra þjóða og kúgaðra, færð í "vísindalegan" orðabúning. Andstaðan gegn þessari afstöðu risaveldanna kemur fyrst og fremst frá ríkjum 3. heimsins. Sérstaklega hefur sú afstaða rússa verið gagnrýnd, sem felur í sér rétt allra ríkja til að nýta auðlindir innan lögsagnar fátækra ríkja ef þau reynast búa yfir ónógum tæknibúnaði eða vera of fátæk, til þess að nýta þessar auðlindir sjálf. Gegn þessu hafa ríki 3. heimsins sett fram kröfuna: full yfirráð yfir 200 mílunum, bæði efnahagslega og pólitískt. Þannig gætu þau ekki bara verndað auðlindir sínar gegn rányrkju og þjófnaði risaveldanna og annarra heimsvaldaríkja, heldur einnig bannað herskipum þeirra að sigla fyrir utan strandir landa sinna. Þessi krafa er réttmæt og verð stuðnings.

## NATO er heimsvaldabandalag

Að sjálfsögðu hefur NATO tekið undir skoðanir USA á þessum málum. Þau styðja 200 mílurnar þegar þær eru gróðahagsmunum þeirra í hag, en snúast gegn þeim, þegar þær skerða gróða þeirra og hernaðarlega hagsmuni. Þannig vill Bretland fá 200 mílna olíulögsögu fyrir sig, en berst gegn 200 mílna fiskveiðilögsögu Íslands. Bretland hefur líka aðrar ástæður, en þær eru hernaðarlegar. Það vill halda "hefðbundnum" rétti sínum, sem drottning hafsins á N-Atlantshafi og í þessu atriði nýtur það fulls stuðnings lagsbræðranna í NATO. Það er nefnilega sameiginlegir hagsmunir NATO landanna, að ekkert eitt land fái pólitísk yfirráð yfir 200 mílunum. Það myndi þýða, að flotaæfingar og herskipasiglingar risaveldanna og hernaðarbandalaga þeirra yrðu gerðar ómögulegar á geysistórum hafsvæðum, þar á meðal N-Atlantshafinu. Árás bresku heimsvaldasinnanna er því ekki bara beint gegn náttúruauðlindum Íslands, heldur einnig gegn sjálfsákvörðunarrétti íslensku þjóðarinnar. Þessi árás hefur orðið til þess að opna augu fólks fyrir hinu rétta heimsvaldaeðli NATO, hún hefur sagt því í verki þann sannleika sem marxistar-lenínistar hafa áður boðað.

## Hverjir vilja aðskilja NATO-málið og landhelgismálið?

Borgarastéttin reynir ákaft að sannfæra fólk um að þessi mál séu óskyld og að ekki beri að blanda þeim saman. Í þessari tilraun sinni til þess að hylma yfir heimsvaldaeðli NATO og breiða yfir árás þess á Ísland, nýtur hún stuðnings fólks sem kallar sig vinstri sinna. Alþýðubandalagið og trotskistarnir í Fylkingunni snerust hart gegn því innan Miðnefndar herstöðvaandstæðinga á dögunum, að minnst væri á landhelgismálið, á þeim forsendum, að NATO kynni að leysa landhelgismálið fyrir íslendinga bráðlega og þá myndi allt fólk sem gert hefur NATO-andstæðingar vegna landhelgismálsins aftur snúast á sveif með NATO. Þetta traust á NATO er furðulegt og sýnir glögglega hið rétta eðli endurskoðunarstefnunnar. En hitt er ekki furðulegt heldur dæmigert fyrir endurskoðunarsinna, að þeir hafa ekkert traust á verkalýðnum. Þeir þora ekki að segja sannleikann um NATO í landhelgismálinu, af ótta við að verkalýðurinn skilji hann ekki og snúist á sveif með NATO við minnsta gust frá áróðursmaskínum borgarastéttarinnar. Sannarlega er hér um stuðning við íslenska auðvaldið að ræða og ekkert annað.

Kommúnistaflokkur Íslands m-l ber traust til verkalýðsins og lýsir því beint og opinsksátt yfir, að NATO mun aldrei leysa eitt eða neitt fyrir íslenska alþýðu - eina aflið sem getur leyst landhelgismálið og NATO-málið er íslenska verkalýðsstéttin og barátta hennar. Þess vegna hefur KFÍ/ML þá afstöðu, að baráttuna gegn bretum í landhelgismálinu og baráttuna gegn NATO og veru hersins hér, eigi ekki að slíta í sundur, þvert á móti ber að tengja þetta tvennt sam[illegible] því þannig verður eðli NA[illegible]öllum ljósast.

Við munum líka berjast fyrir því, að fylkja sem allra flestum til baráttu gegn NATO, hvort sem það er vegna dvalar hersins, aðildar Íslands að NATO eða árásar breskra herskipa gegn auðlindum og sjálfsákvörðun íslensku þjóðarinnar. Ísland úr NATO - herinn burt. Full yfirráð yfir 200 mílunum. enga samninga við breta. Ísland fyrir íslenskan verkalýð og vinnandi alþýðu.

-/kg